Medtak þu Teikn hins Heilaga Kross/ bæde a Enne z a Briooste.
Vier vilium bidia.

AL(mættuge Eilijfe Gud/ Fader Drottens vors JEsu Christi / Eg ækalla þig fyrer þennan þinn Þienara/ N. ( þessa þijna Ambatt/ N.) sem bidur um þijna Skijrnar Gafu/ og girnest þijna Eilijfa Nææd/ fyrer þa Andlegu Endurfæding. Medtak þu hann (hana) DRotten / Og so sem þu hefur sagt/ Bidied og munud þier medtaka/ Leited z munud þier finna/ Knijed a/ og mun fyrer ydur uppløked verda. So gief nu þad gooda þeim sem bidur/ og læt upp Dyrnar fyrer þeim sem æknijr/ ad hann (hun) odlest Eilijfa Blessun þessarar Himnesfrar Laugar/ og medtake Fyrerheited Rijke þinar Gæfu/

þu/ fyrer JEsum Christum vorn DROttenn.

Hier til skulu Gudfedgineñ svara

AMEN.

Presturenñ seige.

Latum oss bidia.

AEmeattuge eilijfe Gud / þu sem med Strijdu þijns Riettlætis / hefur med Vatns Floode fyrerdæmdt hina vantrwudu Verolld / og med þiñe mikellre Myskun / frelsader hiñ trwlynda Noa / og ætta, Sæler med hønum / og dreckter hinum hardhuga Pharaone / med øllum sijnum i Hafenu Rauda / og flutter þiñ Lyd Jsrael þurrum Footum þar i giegnum / þar med teiknande þa heiløgu tilkomande Skijrn / og fyrer Skijrn þijns elskulega Sonar DRottens vors JEsu Christi / hefur þu bæde Jordan og øll Vøtn

helgad / og innsett til hialpsamlegs
Flods/ og ryckuglegrar Hreinsunar
Syndana. Vier bidium þig fyrer
somu þyna oseigianlega Myskun-
seme/ ad þu virdest þenan N. nad-
duglega ad auka/og han med riett-
re Trw ad giæda / ad þyrer þessa
heilsusamlega Vatnslaug/ dreckest
aþ honum og mæest/ þad allt sem
honum er af Adam medþadt / og
han sialþur þar til verkad hefur/
og ad han (hun) aþ Tolu Van-
trwadra Mana þraskilen/ i Ork
Heilagrar Christne / þurr og or-
uggur vardveittur verde/ jafnann
med gloandi Anda og gladværre
Von/ þynu Nafne þione/ so han
med ollum Trwlindum maklegur
verde/ ad odlast Eilyft Lyf þyns
Fyrerheitis/ fyrer JEsum Christ
um/ vorn Drotten.

Gud-

Þar epter ſeiger Skijrepaderen.

Eg Sære þig þu Ohreiñ Anⸯde/ i Nafne Guds Fodurs z Sonar/ og Heilags Anda/ ad þu wkſarer z burthverfer af þeſſū Þienara JEſu Chriſti/ N. Amen.

Lærum offheyra þad H. Evangelie um ſem Marcus ſkrifar.

J þañ Tijma/ færdu þeir Bꝛ̈n til JEſu/ ad hañ legde Hendur yfer þau/ eñ Læreſveinarner atoldu þa ſem þau leiddu. Og er JEſus ſa þad / lijkade honum þad eige vel / og ſagde til þeirra. Leyfed Bornunum til mijn ad koma / og bañed þeim þad eige/ þviad þvilijkra er Guds Rijke. Sañlega ſeige eg ydur / hvor hañ medtekur ecke Guds Rijke/ ſem añad Vngbarn / ſa mun eige iñganga i þad. Og

han̄ took þau i Fang/ og lagde ſyͤ nar Hendur yþer þau/ og Blessade þau.

Sydan̄ legge Presturen̄ ſynar Hendur a Høpud Barnſins og bidie/ jafnt Gudføedginum/ med Kniefalle/ og ſeige ;

# FAder Vor / og etc.

Leide ſydan̄ Barnkornid ad Skyͤrnar Brunnum/ og ſeige ;

DROTten̄ han̄ vardveite þiñ Jn̄gang og Vtgang / nu hiedan̄ i fra/ og ad Eilyͤfu.

Gudfedginen̄ ſeige: AMEN.

Sydan̄ læte Presturen̄ Barned fyrer ſyn Gudfedgin/ afneyta Dioflenum/ og ſpyrie ſvo,

N. Afneytar þu Dioflenum ?

Andſvar : Ja.

Og ollum han̄s Verkum ?

Andſvar : Ja

Og ollu han̄s Athæfe ?

Andſvar : Ja.

Sydan̄

Sijdañ spyrie hañ

Trwer þu a GUD FÖDur Almættugañ / Skapara Himens og Jardar ?

Andsvar: Jä.

Trwer þu a JEsum Christum hañs Son eingieteñ DROTTeñ vorn/ gieteñ af H. Anda/ fæddañ af Mariu Meyu/ Pijndañ under Pontio Pilato/ Kroßfesteñ/ Lijflateñ og Grafeñ / Nidurstijgeñ til Helvijtis / Vppriseñ af Dauda / Vppstijgeñ til Himna/ Sittande til GUds Födurs hægre Handar/ þadañ komande ad Dæma Lifendur og Dauda ?

Andsvar: Jä.

Trwer þu a Helgañ Anda/ og ad er ein heiløg almeñeleg Kyrkia/ Samneyte Heilagra / Fyrergiefn-

ing Syndan̄a/ Holldsins Vpprisa/ og epter þetta Lijf eilijft Lijf?

Andsvar: Jaa.

N. Villtu verda Skijrdur? (skijrd)

Andsvar: Jaa.

Sijdan̄ take han̄ Barned / dijfe þvi i Skijrnar Vaten̄/ eda ause þad Vatnenu og giøre þetta med miklum Athuga/ þvi hier uti skal leita Barnsins Velferdar / en̄ eke Skada/ og seiger Presturen̄ a med-bann:

# N. Eg Skijre þig i Nafne Fødurs/ og Sonar/ og Heilags Anda.

Gudfedginen̄ meiga hallda Barnenu hia Fontenum / so lenge ad Presturen̄ færer þad i Skijrnar Klæded/ (Kuflen̄) sem vanalegt er / sijdan̄ lese han̄ þessa Bæn.

Almattugur GUD og FADer vors DROttens JEsu Christi/ sem þig hefur endurgieted fyr-

er Vatn og helgan Anda/ og hef-
ur þier allar þijnar Synder fyrer-
giefed / han styrke þig med sinne
Nꜳd/ til eilijfs Lijfs/ Am.

FRJdur Sie Med Þier / Amen.

Aminning til Gudfedgina epter
Skijrnena.

MEd þui Þid erud Gudfedgin
þessa Barns/ þa erud Þid uppa
Guds vegna og ydar Embættis /
skylldug þessu Barne/ Fyrst ad bera
Vitne um / ad þad hefur medtekeð
Skijrn og Christne / og ef Foreldo-
rar þessa Barns kunna fra ad falla /
ædur enn Barned kiemur til Logalldo-
urs/ þa eiged Þid ad kienna Þui sijn
Christeleg Fræde/ Tiju Bodorden/
Credo / Pater noster / Innsetningar
Orden Sacramentanna beggia / og
annad þad sem Barnsins Sꜳluhialp
ahrærer/ ef ad Þid erud Barnenu

nalæg. Seiged Fodur og Moodur/ad þau uppfræde Barned i Guds Otta og goodum Sidum.

GUD Nallde Sine Blessan Yfer Oss/ AMEN.

EF Barn hed kiemur til Presta/ sem ædur er Skyrdt / og virdest hönum riett Skyrdt / þa skal þad i aungvann mata Endurskyra / þviad ecke er utann ein Skyrn/ Eph. 4. Alleinasta skal hañ telia fram Trwargreinernar i Spurningum/ sem Sidur er til / og Evangelium Marci/ lese Fader Vor med Kniefalle. Sydañ skal hañ seigia til þeirra sem hia eru/og sierdeilis til Gudfedginaña/ hvörsu Foreldrarner hafa tilþeinged.

Good Syskin / Þetta Barn er nu ædur Skyrdt/ og hefur allareidu medtefed helgañ Anda / med Syndaña Fyrergiefning / fyrer þvi skulum vier þad ei Endurskyra. Og skulud þid Gudfedgin hier um/framar ollum odrum Vitne bera / og

Þacker

þacker giora Gude DROttne vört-
um/ sem þad hefur til Nædar te-
ked/ fyrer Christum.

Þar epter seiger hañ til Barnsins :

GUD hañ vardveite þiñ Iñ-
gang og Utgang/ nu hiedañ i fra
og ad Eilijfu/ A M E N.

Gudfedgineñ seige : A M E N.

Bidie þa eenu sijdustu Bæn / sem til
er giörd/ medañ hañ færer Barned i
Skijrnarklædeð.

Almættugur Gud / og Fader vors
Drottens JEsu og etc.

Þar epter seige hañ til Gudfedginañaz
Saker yckars / og etc.

## Hier epterfilger ad vitia Siukra/ z giefa þm þa heilogu Aflausn z Sacramentiñ.

AD vitia þeirra sem liggia a finne Sottar Sæng/ er Gude migg þæge-

 lege/

legt/ og sialbur Christur hañ vill a dim-
um sydasta Deige minnast þessa Verks/ so
sem hañ seiger/ Matth. 25. Par fyrer
skulu aller goodfwslega vitia þeirra Siuk-
ra/ þa þeir eru þar um bedner/ giefa
þeim Huggun og Undervysan og Sacra-
mentum/ med ødru þvi sem æliggur/ a
þennañ Hatt sem eptersilger.

Nar Presturenñ er nu kalladur/ z kiem-
mur til hins Siuka/ þa skal hañ fyrst z
fremst athuga/ hvørnenñ sa same hefur
hegdad sier/ hvørnenñ hañs Lyf og Fram-
ferde hefur vered/ hafe hañ trwadur ve-
red/Guds Ord elskad/uppa þad ad Prest-
urenñ kuñe þess helldur og betur ad under-
vysa hønum/ amiña og leidrietta hañ/
epter þvi sem hañ þa heirer og formerk-
er/ og þeir sem ecke betur kuña/þa meiga
þeir þad giøra a þennañ Hatt.

Kiære Brooder (Syster) vær
skulum sem hlydner Piooner
og good Børn/alla tyma/bæde
i Heilsu og Krankleika setia vorn
Vilia i Guds Vilia vors Himn-
eska Fødurs/ sem skapad hefur Him-
en og Jerd oss til goods/ hañ hefur

og

og sendt Son sin oss til Lausnar/ han hefur og lofad oss (ef vær erum i Trwne) eilijfu Lijfe og Rijke Himnana/ han wtvegar oss Hreinleika/ z oss Skickanlegheit/ so vær sierdeilis a Bitiunar Tijmanum/ i aungvum Hoorum i Opolenmæde/ setium oss i moote honum / first vier hofum miked gott af Gude peiged/so ad hn̄ hefur oss ei golldet epter vorre Forþienan helldur umlijdur han oss Fødurlega til Idranar z yferbootar / þvi skulum vier þa ecke bera nockurn Part Krossens og Mootlætesins? þar sem vær hofum miklu meira forþienad/ef han villde oss/so sem synd uga streingelega wrskurda/ eda þvi vilium vier ecke med allre alwd og Undergiefne hans vila liuflega medtaka/ og giefa oss ad skilia þar med/ ad vier verdum ei fundner Oþack'ater/þar sem ad Christur Gu, ds Sonur hefur drucked fyrer oss

han

þañ beyska Kaleik Pijnuñar og Daud
ans. Þar fyrer kiære N. Vertu
Hughraustur/ og traustur i GVds
Myskunseme/ Og so sem vær ættum
alltijd ad vera vakande og reidubún-
er fundner nær hañ kiæme/ so vier
mættum med hinum vijsu Jungfrun
um moote hønū gauga/ & ecke naud-
uger edur Oskickanleger vera. Vier
erum i þessare Eymd Pilagrijmar/ &
ecke añars eñ Vtlender/hafande hier
øngvañ Stad nie Veru / enn vort
Fødurland og Heimkiñe er i Hime-
rijke/til hvørs ad vær þvi meir næ-
lægiunst/ og æ þess meir/ sem vier
fiñum oss veikare i Lijkamanum/Þar
fyrer er þad allt tilbærelegt/ ad vær
tilreidum oss/ skyckum/ og fyrerskip-
um øllum Hlutum. Og nu kiære N.
Ef þad kañ nockud þunglegt ad ligg-
ia i þiñe Samvitsku sem þu vilier
mier sagt hafa/ þa mattu nu þad
vel giøra. Sijdañ vilium vier hvør
med

med ödrum til Guds kalla/epter Christelegre Skickan.

HIer giøre sa Siuke syna Jatning/ a medan þad er giørt/ þa gange Fooleed i burt/ og kellest aptur epter Jatningena. Epter Jatningena/ þa skal Presturen setia fram fyrer hin Siuka Huggunar Greiner Heilags Evangely/ med allre Alvud og Rægsemd/ og giefa hønum Aflausn/ og enda þad med þessum Ordum edur þvilykum.

MJn kiære Brooder (Syster) med þui ad þu ydrast nu þina Synda af Hiarta/ og þu treistet alleina uppa Guds Naad og Myskunseme/ fyrer vorn Herra Jesum Christum/ þa eru þier allar þinar Synder fyrergiefnar. Vertu Hughraustur og Ohræddur/ set þier alvarlega i Hug og Hiarta/ ad drygia ecke hiedan i fra Synder og Glæpe. Þin Trw gierer þig hialplegan. Þviad vors Herra Jesu Christi Blood/ þad afþvær og hreinsar allar þinar Synder/ Joh. 1.

Joh. 1. Apocal. 1. Og kunnu þyr er vÿst / þar er eckert añad Nafn giefed Mønnunum under Himnenum / i hvoriu vier kuñum ad verda Sæluhoolpner / utañ i Nafne þess Krossfesta JEsu Christi / vors DRottens og HErra.

Þar epter lese Presturen̄ þessa Bæn og Jatning.

HErr Almæktuge GUd z Himneske Fader. Vier aumer z afskaplega synduger Meñ / medkieñunst ad vier hofum syndgast fra Barnæsku / allt til þessarar Stundar / i mooti þÿnum Bodordum / i vondum Hugreñingum / Ordum / Vilia og Verke / sem vier giefum med øngvu mooti reiknad / þar fyrer erum vier ecke makleger ad nefnast þÿn Børn / eda upplifta vorum Augum til Himna. O miñ Gud og Fader / vier

vier villdum nu þig alldrei reitt ha-
fa/ Bidiande erum vær þig/ saker
þinar Myskunseme / og Heidurs
Nafns þyns/ ad med Fyrergiefn-
ing vorra Synda / vilier þu oss i
Nadeñe medtaka.

## Aflausneñ.

ALlsmektugur Gud ꝛ Himneskur
Fader/hn Myskune oss/so sem̃ he-
fur sendt siñ Son i þessa Verelld
til Dauda/hvør ed Foornfærdur var
sem saklaust Lamb fyrer vorar Synd
er/ a hvørn ef vier trwum/ þa mun
um vær med Spill virkianum a Kr-
ossenum ødlast bæde Fyrergiefning
Syndaña/ og so Jñgøngu til Lyfs-
ins. Ef þu trwer þessu af ollu Hiar
ta/ þa seige eg þig af Krapte Gud-
legrar Lofunar lausañ og liduga af
ollum þynum Syndum/ J Nafne
Fødur og Sonar/og Anda Heilags/
A M E N.

Laete

Lætum oss bidia/ Fader vor z. etc.

Sydan seige Presturen.

MJñ Gud/ giør þu hoolpeñ Þi-
oon þiñ/þañ til þijn vonar/Se
nd þu honum Hialp af þijnum Hel-
gedoome/ og af Syon giørdu hañ
hoolpeñ Motteñ/sierfu hönu styrk
ur Kastale/ fyrer Asioonu Ovinar-
ens/Motteñ/heyr þu vora Bæn/
og læt vort Akall koma til þijn.

Lætum oss bidia.

ALmættuge/ Eilijfe Gud/ þu s
leingder Lijfdaga þijns Þioons
Ezechiæ Kongs um fimtan Ar:
Vier bidium þig audmiuklega/ ad
þu villder med þeirre somu þinne
Magtar Hende/ Heilsu liena þessu
þijnum Þioon (þessare þiñe Am-
bætt) hier til Heidurs / epter þvi
sem hier velþocknast. Fyrer Jesum
Christum þiñ Son/ Amen.

Sijd-

Sÿdañ læte Preſturen̄ upp lÿted Bo-
rd/ og legge hreinañ Dwk þar uppa/eda
ſo ſem hañ kañ þvi beſt af ſtad ad koma:
Kæri Vÿn i Kaleik/ Braud a Patinu/
ſetie upp Vaxlioſa / Snweſt ſÿdañ til
þeſſ Stuka/ og ſtige.

MJñ goode Brooder (Syſter) mz
þvi þu villt nu medtaka vors
HErra JEſu Chriſti Holld og Blo-
od/ og miñaſt hañs Dauda og Pÿ-
nu/þa gief vel giætur ad þiñ Ord-
um ſem ad hliooda uppa þetta heila-
ga Sacramentum hañs Hollds og
Bloods/ og trw þeim af Hiarta/ z
þacka hønum fyrer þa Oumrædele-
gu Elſku ſem hañ hafde til vor/ þa
hañ fyrer Foorufæring ſÿns Lÿkama/
og wthelling ſÿns bleſſada Bloods/
leyſte oſſ fra Fyrerdæminguñe/ Guds
Reide/ Syndeñe / Dauda um og
Helvÿte. Og til æfeñlegrar Miñing-
ar hier um/ hefur hañ giefed oſſ ſitt
Holld og Blood ad eta og drecka/ til

eins

eins Jn̄siglis ꝛ fullkomlegrar Stir
kingar/ uppa hans Ord og vorꝛ
Saluhialp.

Til Fooltsins sem stadt er vid þessa Hel
løgu Pioonustugiød hia hinum Siuka/
Seige Presturen̄ so.

VOr Drotten̄ JEsus Christus seiger so sialfur/ ad hvar tveir eda þrijr eru saman̄komner i mijnu Nafne/ þar er eg midt a mille þeirra. Og hvad sem vier bidium i hn̄s Nafne/ þad faaum vier vissulega. En̄ saker þess ad vier erū hier i Nafne Drottens til samans komner / ad halda Miñing hans Heilaga Dauda / þa skulum vær i Nafne Guds / gieþa vorum Siuka Broodur ( Systur ) Guds heilagt Sacramentum sem nu kan̄ ecke adkomast med oss til Kyrkiunnar Samkundu.

Sijdan̄ lese hatt og skijrlega Credo ꝛ Pater noster i Moodurmaale. Take sijdan̄ Patinuna med Braudenu/ og lese Helgunar Ordenn.

Vor

VOr HErra JEsus Christus / a þeirre Noott sem hañ forraadeñ vard / Took hañ Brauded / giorde Þacker / og braut þad / og gaf sijnum Lærisveinum / og sagde. Taked og Eted / þad er miñ Lijkame / sem fyrer ydur verdur giefeñ / Giored þad i mijna Miñing.

Giefe þeim Stuka / og seige :

Lijkame vors HErra JEsu Christi / Vardveite þijna Saalu til eilijfs Lijfs.

Take sijdañ Kaleikeñ / og seige :

Somuleidis epter Kvølldmaaltijdena / Took hañ Kaleikeñ / og giorde Þacker / gaf þeim hañ og sagde. Drecked aller hier af / þad er Kaleikur hins Nyja Testamentis / i mijnu Bloode / sem fyrer ydur wthellest / til Fyrergiefningar Synd-

Syndaña/ So opt sem þier giøred þetta/ Drecked þad i mÿna Minning.

Giefe þeim Siuka / og seige:

Blood vors HErra JEsu Christi / vardveite þÿna Sal til eilÿfs Lÿfs.

Epter þetta seiger Presturen til þins Siuka:

Nu miñ kiære Brooder (Syster) þu hefur þig nu bevÿsad Christeñ Mañ vera / og ert nu eirn Limur Christi Lÿkama/þar fyrer verttu nu miñugur / ad hver sem med Trwñe verdur iñplantadur Christo (ad þo hañ deye) þa ma Daudenn hønum ecke leinge hallda / helldur mun hañ upprisa a Doomsdeige / ecke til daudlegs Lÿfs / helldur til eilÿfs Lÿfs/ og mun sia Gud Auglite til Auglitis / samteingdur Utvøldum Heiløgum Guds. J þessare Von styrk Hiarta þitt / og set þiñ

þinn Anda og Vilia til Guds Vilia/ sem skapad hefur Himenn og Jørd af aungvu Efne / hann mun og þig (hvørn hann hefur skapad epter sinne Lyknesskiu & Lyking/ og hanns Sonur hefur endurleyst) ecke forlata/ so þu fordiarfest eilyfflega. Hugleidtu þau nꝏdarfullu Fyrerheit/ sem sa Sannleiksfullaste Gud hefur so margfalldlega lofad fyrer Spꝏmennena og Postulana/ einkanlega/ ad þeir sem trwa a Christum/ þeim er lofad Himnarijke. Sierdeilis lꝏttu þier ecke wr Minne falla / hvørsu beyskann/ hꝏduglegann / harmkvꝏlafullann Dauda/ ad Christur hefur þolad fyrer oss/ og bid af Hiartans Grund / ad soddann hanns kroptugasta og nꝏgdarfullasta Forþienan verde sett i mille þinnar Sꝏlar og hanns Riettlꝏtis/ i þinne Framfør/ og so trw þu med øllu ad hann hafe gnoogsamlega fyrer þig þolad / og med sinne For-

þienan

þienan þier tilreidt hia Gude/ Heim-
kyñe eilijfs Lijfs/ Lioosf og Glede /
Christur hiñ Krossfeste/ hñ ende vid
þig øll sijn Fyrerheit/ A M E N.

## Signingeñ.

GUD vor Himneskur Fader/ sem
þig hefur skapad / hañ blesse
þig. Gud vor HErra JEsus
Christus / sem þig hefur endur-
leyst/ hañ frelse þig. Gud Hei-
lagur Ande/ hñ upplijse þitt Hiar-
ta i sañre Ydran/ riettre Trw og
Vidurkieñingu / og Christelegum
Kiærleika. Þesse heiløg Þreñing
styrke þig bæde i Sælu og Lijfe/ og
læte þig stødugañ standa i allre A-
strijdu og Freistingum med riettre
Trw. DROtteñ vor Gud sie med
þier / og blesse þig / og vernde þig
fyrer øllu Vondu / og giefe þier
þad eilijfa Lijf/ A M E N.

Fridur

# FRJDur DROTTENS Sie Med Þier/ A M E N.

EFTER þa bráð Naudsyn krefur / ef hiñ Siuke er laungt komeñ ; þa lese fyrer hønum/ FADer Vor/ Trwna/ og Helgunar Ordeñ z soddañ Aminning sem hañ sier hiñ Siuke gietur epter bered/ vegna hañs Krankleika/ og þionuste hann strax sydañ/ og befale hañ so Gude i Vald. Item þar sem vera kuña Siukter. Meñ i Bwdum og Kofum/ edur ødrum Oklærum Stødum og Hreisum/ þa fare Prestarner til/ ad þeir med allre Athygle/ umhuxe og fyrer Guds skulld vidleite: ad handtierast mætte þad heilaga Sacramentum/ sem hreinlegast og virduglegast sem þad verdur giørt.

Er skulu Prestarner hia þeim Siuku hafa utaf þeirra eigeñ Klæde. Þar fyrer hæfer øllum Gudhræddum Kieñemøñum ad hafa Ærlegañ/ Sidsamlegañ Klædabwnad/ til Heidurs vid þ hæleita Sacramentum.

Þar sem Presturen̄ verdur eitt sinn kalladur til Siuks Mañs/ þangad skal hañ optar koma/ ef hiñ Siuke hefur þess Þørf/ utañ svo sie ad sa Siuke hafe einhvørn

þøren a Børnum sem lesa kañ þyrer hønum ap Guds Orde.

## Um Hiecona Vijgsluna / Lijtel Undervijsan/ vegna Einfalldra/ Lijtilærdra Presta.

SO skrifar sa merkelege Madur D. Marthinus Luth. Epter þvi (seiger hañ) ad Brwdkauped og Hioonabandsstiecteñ er veralldlegur Hlutur/ þa hæfum Vier hier ecke añad med / eñ ad giefa Hiooneñ samañ / sem fyrja Samvitskurnar / med Christelegre Undervijsan og Leidriettingu. Hier ad hnýgur sa gamle Malshattur/ Siñ er Sidur i Lande hvøriu. Þar fyrer byriar oss og ad lata hvørt Land / Borg og Bæ hallda sijnum Løglegum Sidvana um Trwlofan/ Kaup/ Festing/ Brwdkaup og añad sem Hioonabands Giørninge tilheyrer. Eñ med þvi Landsvijsa er Lands Æra/ þa byriar oss ei helldur ad umbreyta þvi/ sem Gamallt/ Christelegt og Loflegt er hier hia oss/ af hvørre Breytne ei kiemur añad / eñ Rijf og Osamþycke / med allre añare Osidseme. Þvi vil eg

ammine

kunnint og umbeded hafa / alla Kiennemen og Presta / ad giæta vel ad vorum gømlu Kyrkiuløgum og ødrum Christelegum Skyckunum / þad Hioonabandenu vidvykur / so ad aller Hluter mættu þvi betur og Christelegar tilganga i þessu Efne.

Fyrst er þad athugande / ad sa sem vill Giptast / hann uppbyrie þad med Bæn og Akalle til Guds / þviad so skrifar sa vyse Madur Salomon: Gots og Peninga taka Menn epter Fødur z Moodur / enn good Kona kiemur af Gude.

Þar næst / sa sem sier vill Konfange leita / þa skal hann þeirrar Meyar eda Konu leita med goodre Forsiaa / ad ei sieu Meinbuger a / so ad hann vite / med þeim kleyrum goodum christelegum Greinum / sem ad standa i vorum gømlum Kyrkiuløgum.

Þad skal og øllum kunnugt vera / ad so er nu skipad / ad þar skulu einginn Hioon samangiefast / sem eru Þrimenningar og þar fyrer innann. Leynelegur Hiuskapur / Kaup edur Trwlofaner / er med øllu fyrerboded / og ad aungvu hallduande / ei helldur þær Trwlofaner sem skie i mooto

Vilia og Raade Foreldranna / edur Giptingar Manna.

Leikmenn skulu nu ei Kaupa med nockrum Hioonum / og eingenn nema Soknarpresturinn. So skal og Presturenn taka til syn / minsta koste 5. Ærlega Menn / sem Vitne skulu vera Hioonabands Giørningsins / hvad sem aaliggia kann.

Vandlega skulu Prestarner fyrerbioda Hioonaefnunum ad koma samann / edur enn þau eru samannvygd / Enn ef þau þad ei hallda / þa afleysest þau opinberlega / sem fyrer Fryllulyfe / þviad styggar Hneyxlaner eru i Christelegre Kyrkiu ecke lydande.

## Ad kaupa med Hioonum.

Nu ad framsøgdu Fiekaupe og øllum Skilmaala / þa spyrie presturenn þau ad med þessum Ordum:

Villtu N. Son taka þessa Kvinnu (Jomfrw) þier til eigenn Konu / so Siuka sem Heilbrygda / hvad sem Yckur kann

til

til Handa ad bera / ꝏ medañ Þid lifed Bæde ?

Seige Hañ Jæ.

Villtu N. Dootter taka þeñ añ Mañ hier til Hwsbonda / og eiga Hañ so Siukañ sem Heilañ ?

Seige Hun Jæ.

Epter Jayrde þeirra Beggia þa takest Þau i Hendur/og seige Prestur iñ so :

GVD Sinꝏ Handaband þessara Mañá sem hier taka Høndum saman/ aþ eirnre Alfu N. N. Son/ og N. N. Dootter. Eñ þad þelst og skilst under þessu þeirra Handabande/ad þau Løgrꝏda med sier Hiuskaparband/ so þramt sem þad Meina ecke Guds Løg / og med þeim Skilimꝏla sem nu var þramsagdur. Erud Þid skylldug ad lꝏta Lysa þria Suñudaga / ꝏdur Festar þara þrañ/ Yckar Þyngaprest/ og epter

Festing erud Þid skylldug ad læka Ydur samañvÿggia (ellegar verdur Athyge a Ydar Hioonabande) og med þessum Skilmæla og ædursøgdum Kaupmæla / sie Haudabanded laust / enn Kauped fast / ad Vitne Guds og allra þeirra goodra Mañä sem nu eru vidstadder.

Sydañ sie lijst i Kyrkiuñe med þessum Ordum edur þvilykum/ þria Suñudaga.

ÞVi vil eg lÿsa fyrer ydur / ad N. N. Son og N. N. Doot-ter hafa raded med sier Hiwskap-arband epter Gudlegre Skickan/og Landsins Løgum. Og ef nockrer eru hier vid stadder / sem hier vita nockra Meinbuge a / Frændseme / Mægder eda nockra adra Tælman edur Hindran / so ad þesse Rædahagur meige ecke ad Løgum takast þa skylldast þeir til ad segia/ ædur Festar fara fram. Eñ þeir sem

Lÿsing

Lÿsingena heyra og Meinen̄ vita/ og vilia ecke til seigia / eiga ecke seirna þar um ad heyrast: Er þesse su Fyrsta ( Aun̄ur / Þridia ) Lÿsing i Kyrkiun̄e þeirra a milla.

So og er eg ydur amin̄ande/og audmiuklega bidiande/ ad þier bidied fyrer þeim til Guds / ad þau meige þetta i han̄s Nafne uppbyria/so þeim vel luckest fyrer Sal og Lijf/og seigium þar til/Fader Vor.

## Hioona Vijgslan̄ Sialf.

AD endudum þremur Lÿsingum/kome Hioonaefnen̄ til sin̄ar Soknar Kyrkiu a Sun̄udeige/ og late sig þar saman̄ giefa og vijgia/ epter Guds Orda Hlioodan og christelegre Skickan. Og sodan̄ Hatt meiga þeir hafa sem et betur kun̄a.

Fyrst a Sun̄udags Morgunen̄ gange allt Folk til Stofu/ edur i nockurn an̄an̄ hreinlegan̄ Stad. Skal þar fyrst amalla/ hvad fram̄ foor a Kaupdeige / um

 þetta

þeirra Fielag Hioonaña. Og ef auungvar Hindraner koma þa eñ þram/ þa skal hañ Festa Konu syna / epter vorum Lands-lögum/ ad heyrdu Jayrde beggia þeirra/ sem Sidur er til. Jnte so hætt ad all-er heyre/og sie vel adgiætt ad Kveñskrip-teñ sie oneydd/ og hafe siñ frialsañ Vil-ia. Og take Brwdgumeñ i Hønd a. Brwdeñe / og mæle þessum Ordum :

Eg N. Son Feste þig N. Dootter/ Mier til Løg legrar Eigeñ Konu/ epter Gudo Løgum og Landsins og Heilagra Fedra Set ninge / Nu ertu mijn Løg leg Eigenn Kona hiedann af.

Ad þessu endudu/ gange þau i Kyrk-iu hvørt med sijne Fylgd/ z a midt Kyrk-kiugolf/ Prestur sie bweñ þar til sinnar Þione

Pioonustugtsførdar/gange fram til þeirra og take so til Ords.

Goodet Christi Viner/ Kunugt er ydur hvar komed er med þessum Persoonum sem hier standa i Augsyn Heilagrar Kyrkiu. Eru þau hier nu komen/ ad lata sig saman vygia med GUds Orde og Christelegre Bæn/ ad Gud villde giefa Luck u z og Blessan til þeirra Hiwskapar.

# Til Brudhioonana.

MEd þvi þid slykt gyrnest/ Þa vil eg en sem fyrr spyria. Viltu N. Son taka þßa Kvinnu (Jomfrw) hier til eigen Konu/ so sinw ka sem Heilbrigda/ hvad sem yckur kan til Handa ad bera/ a medann þid lised bæde?

Seige han' Ja.

Villtu N. Dootter taka þennan

Mañ þier til Hwsbonda/ og eiga Hañ so Siukañ sem heilañ?

Seige Hun J.n.

*Hier skal Presturenñ leggia þeirra Hendur til samans/ eñ suna Hønd þar yfer/ og seige so til Foolksins.*

MEd þvi ad þessar ærlegar Persoonur N. og N. hafa samþyckt vorded/ og gieþed sig til Heilags Hiuskaparbands/ og haþa nu þessn hier jatad og medgeinged opeñberlega fyrer Gude og Christelegre Kyrkiu/ og etc. Þa seige eg þau riettelega samteingd/ i ærlegum/ Christelegum og Løglegum Hiuskap. Ad Vitne Guds og goodra Mañа/ J Nafne Fødurs og Sonar/ og Heilags Anda.

*Hier epter seige Presturenñ til Hioonanna.*

Med þvi þid hafed gieþed yckur i Guds Nafne/ i þa Heilogu Hiuskaparbands Stiett/ þa heyred nu fyrst Guds Ord/ sem hlijder uppa þessa Stiett.

J

OG GUd DRottenn sagde/ Pad er ecke gott ad Madurenn sie einn samall/ Vier viljum giora honum Hialp/ þa med honum sie. Þa liet Gud Drottenn Svefnhøfga falla a Mannenn/ hann Sofnade/ og hann took eitt af hans Rifium og fyllte aptur i stadenn med Holld. Og Gud Drottenn skapade Konuna/ af þvi Rife sem hann took af Mannenum/ og leidde hana til hans. Þa sagde Madurenn/ Þetta er eitt Bein af mijnum Beinum/ og Holld af mijnu Hollde/ þar fyrer mun hun Karlinna kallast/ þvi hun er af Kallmannenum komenn. Og þess vegna skal Madurenn yfergiefa Fødur og Moodur/ og samteingiast sinne eigenn Konu/ z þau tvø skulu eitt Holld vera.

Þessu næst þa heyred GVds Bod og Bjfaling/ hvorneñ Gud vill þid lifed i þessare Hioonabands Stett.

Til Ephesios 5. Cap.

Þier Meñ/ elsked ydar Hwsfreyur/lijka so sem Christur Søfnudeñ/ og gaf sig sialfañ wt fyrer hañ uppa þad hañ helgade hann/ og hreinsade fyrer Skijrnar Vatneñ i Ordenu/ so ad hañ tilbigge sier sialfum dijrdlegañ Søfnud/ sem øngva Fleckan edur Hrucku/ eda þesskonar hefde / helldur þad hun sie Heilog og Ostraffanleg. So skulu og Meñerner elska sijnar Eigeñkonur/sem sijna eigeñ Lijkame/ hvør sijna Eigeñkonu elskar/ hañ elskar sig sialfañ / þvi eingeñ hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad/ helldur nærer hañ þad og foost-

fooſtrar/ſo ſ Drottē̄ Søfnudeñ.

Kvinurnar vere ſijnum Bændū undergiefnar/ ſo ſem Drottne/ þvi-ad Madureñ er Kviñuñar Høfud/ lijka ſo ſem Chriſtur er Safnad-arens Høfud/ og hañ er Frelſare ſijns Lijkama/ Eñ lijka ſo ſem Søfnudureñ er nu Chriſto under-giefeñ/ ſo og eirneñ ſkulu Kviñur-nar ſijnum Bændum i øllu.

J þridia lage meiged þid heyra þañ Mootlætis Kroſſ / ſem Gud hefur lagt a þeſſa Stiett.

So ſagde Gud til Konuñar/ Fi ølga mun eg Eimder þijnar/ þeg-ar þu verdur Olieft / ſkalltu þijn Børn med Sooft og Harme fæda/ z under Bonda þijns Vallde ſkall-tu vera/ og hañ ſkal þiñ Herra ve-ra/ Gen. 3. Cap.

Og til Adams ſagde Gud: Fyr er

er þañ Skulld ad þu hlÿdder Rauſt Konu þiñar/ og ætſt af þvi Trie hvøriu eg bañade þier/ og ſagde. Þu ſkallt ecke þar af eta/ Þa ſie Jørdeñ Bølvud fyrer þÿna Sku-lld. Med Ervide ſkalltu þig af hen ne fæda/ alla þÿna Lÿfdaga/ Þyr na og Þyrſla ſkal hun þier bera/ z þu ſkallt Jardareñar Jurter eta. J Sveita þÿns Andlitis ſkalltu þÿns Brauds neyta/þar til þu apt ur ad Jørdu verdur/ ſem þu ert af-komeñ/ þviad þu ert Mølld/ og ad Mølldu ſkalltu aptur verda.

J þioordu Grein er yckur þad til Huggunar/ ad þid vited og trwed/ ad yckar Stiett er fyrer Gude þæ-geleg z Bleſſud/ þvi ſo ſeiger Rit-ningeñ.

Gud ſkapade Mañeñ epter ſial-fs ſÿns Mynd / ja epter Guds Mynd

Mynd skapade hañ hañ/ og hann skapade þau Kallmañ z Kveñmañ/ og Blessade þau/ og sagde til þeir ra. Vared og fiolgest / og fylled Jordena/og legged hana under yck ur. Drottned yfer Sioar arens Fisk um/ og yfer Himensins Fuglum/ z øllum þeim Kvikindum sem hræ-rast a Jardrijke/z Gud leit allt þ er hñ hafde skapad/ z sia þu/ þ var allt samañ harla gott. Þar ꝥ seig er Salomon so. Hvør ſ eignast eina Kvinu/hñ fær goodañ Hluf/z med-tekur þocknan af DROTTne.

Hier skal prestureñ bidia Foolked ad ad bidia til Guds fyrer Hioonunum/ og legge sijnar Hendur yfer þau/og seige:

Latum oss bidia.

ALLsvalldande Gud DRottenn/ þu sem Karlmañ og Kveñmañ hef ur skapad z skyckad til Hioonaban-ds-Stiettar/

ds-Stiettar/ þar til med Lÿkamle-
gu Aþkvæme Blessad/ z þad Sa-
cramentum þÿns Elskulega Son-
ar Jesu Christi/ og Christnennar
hans Brwdur þar med teiknande.
Vier bidium þÿna Omælelega
Goodgyrne/ ad þu vilier ecke þÿna
þvilijka Sköpun/ Skyckun z Ble
ssan / lata til Onÿtis verda nie
þyrerþarast/ helldur Myskunsam-
lega vardveita / fyrer Mottenn
vorn/ og etc.

Aunnur Bæn.
Vier vilium bidia.

AEmættuge/ Eilÿþe Gud og My
skunsame Fader / þu sem sialþur
heþur skickad/ ad Madur og Kvina
skylldu vera eitt Holld/ og hefur þe
ssa Sameinging stadfest med þiñe
Nääd og Blessan. Vier bidium
þÿna

þ\yna Myskunseme/ ad þu giefer þessum Hioonum/ sem hier eru nu samanvijgd i þijnu Nafne/ Nad/ Lucku og Blessan til Lijfs og Sal ar/ ad þau mætte trwlega og riette lega bioona þier i Kirrleika og Samþycke/ Og alla Tijma vera hlijdeñ þijnu Heilaga Orde/ so þau mætte a þañ sijdasta Dag/ verda fundeñ i Tolu Rietchristeña Mañа/ i JEsu Christo þijnum Syne/ vorum Herra. Hver med þier og Heilogum Anda/ lifer og rijker/ og etc.

## Hvørneñ Konu skal leida i Kyrkiu.

ÞEgar nockur Vændis Kona stendur fyrer Kyrkiu Dyrum/ og skal i Kyrkiu ganga epter siñ Barnburd/ þa skal Presturen til hennar koma/ ef hañ er kallr adur þar til/ og seige til þeirra sem þar i kring eru. Goode

Goder Christner Brædur. Þesse vor kiæra Syster er nu i Dag hier komenn til Kyrkiu-Dyra epter sinn Barnburd/ þvi viliumm vær aller þacka Gude fyrer hana/ henne hefur vel geinged med Avøxt sijns Kvidar. Og vilium vier aller a Knie falla/ og bidia fyrer henne Fader vor/ so hun meige med Lyªt an uppfæda sijn Born i Guds Otta og Heidran/ og so fyrer ollum ødrum Dande Kvinnum sem þungadar eru/ hier edur annarstadar i Sveitumm/ ad Gud ville giefa þeim sijna Nad til ad skiliast vel fra sijnum Averke/ sijdann forvara hann fyrer Ellde og Vatne/ og ollum Lijfs Haska/ so þær kome ecke i Haska fyrer Lijf edur Sal/ fyrer sijn Born.

Fader vor/ og etc.

Þar epter seiger hann til hennar/ þa hun er innleidd.

Mÿn

Mijn kiæra Syster / Kom nu iñ aptur i Christelega Samkundu/ til ad fullgiora þad sem Kristenne Kviñu ber ad giora hier/ iñañ Kyrkiu. Vor DROTTeñ JEsus sijne þier sijna Myskun/ Mañe þijnum og Børnum/ og øllum þeim Gud ottast ad Eilijfu/ Amen.

## Hvørneñ Lijk skal grafa.

Þa Lijk koma til Kyrkiu / þa sieu iñboreñ epter Veniu. Og sie hryngt/ ei fyrer hiñ Dauda / helldur ad uppvekia þa hina Lifendu: Eñ a medañ Lijkked er bored wr Kyrkiuñe / og til sijns Legstadar/ þa skal syngia þeñañ Psalm/ Af Diupre Hrygd: Messu Upphaf Suñudageñ Fyrstañ i Føstu / Þar næst þeñañ Psalm.

MIdt i Lijfe erum vier / umvafder med Dauda / hvort leitum so fiñum hier/ Hialp vid

lþ vid þessum Boda? Til þijn DROTTenn alleina / Illgiorda vorra ydrunst nu / er þvi vallda ad reidest þu / Heilage HErra Gud / Heilage Sterke Gud / Heilage Lij-nksame Lausnare / þu Æfenlege Gud. Lát oss ecke falla / i þa grim-mu Daudans Neyd / Kyrieeleison.

Midt i Dauda ad oss slær / Ogn aþ Vijtes Kvølum / hvør þeim af oss hrunded bær / Hialp þa oss vier bølum / þad ertu DRottenn alleina / Mæder Hiartans Myskun þijn / Mannkyns Kvøl og Synda Pijn / Heilage HErra Gud / Heilage Sterke Gud / Heilage Lijknsame Lausnare / þu Æfenlege Gud. Lát oss ei opbiooda / Ogn af Vijtes grimmre Glood / Kyrieeleison.

Midt i Vijtes mestu Ogn / Misgiorder oss reita / Hvar bæum vier

vier þeim Hialp i giegn ? Hvor kañ oss Lid ad veita ? Þad ertu DRottiñ alleina/ þvi Blooded þiit vor Christe kiær/ Kvittad allar Synder fær/ Heilage HErra Gud Heilage Sterke Gud/ Heilage Lij⸗knsame Lausnare/ þu Æveñlege Gud. Hialp oss þa Heim vid skil⸗ium/ ad hallda rietta Trwarslood/ Kyrieeleison.

Nær Lyked er komed til Grafarcñ⸗ar/ og nidursett/ kaste Presturen Moll⸗darrekum Premur i Grøfena/ seigiande:

Af Jørdu ertu komeñ/ Og ad Jørdu skalltu apt ur verda/ Og af Jørdu skalltu Vppriisa a Nista Deige.

A medañ Meñ fylla Grøfena/ þa sie sunged/ Vier Trwum: Hiedañ i burt med

med Fride cg þer : Sÿdañ þeñañ Pſalm.

VV lætum oſſ Lÿkamañ gra⸗ fa/ og aungvañ Eꝥa a þvi haꝥa/ A eꝥſta Deige upp⸗ rÿs hañ/ i Dyrd ſem alldrei bregd⸗ aſt kañ.

Holldet er Jord/ og aꝥ Jordu/ ad Jordu eirneñ aptur verdur/ þad rÿs aꝥ Jordu efalauſt / þa upp⸗ kiemur Guds Lwdurs Rauſt.

J Guds Rÿke Aundeñ liꝥer/ eilÿf Myſkun heñe hlÿfer / Fyrer Chriſtum hañs kiæra Son / kvitt vid Synder og Daudans Von.

Hañs Mootlæte Nrygd z Mæ⸗ da/ hefur nu øll Ending gooda / Ok Chriſts um ſÿna Æꝥe droo/ er nu framlideñ/ eñ liꝥer þo.

Eilÿꝥañ Frid Aundeñ heꝥur/ allt til Dooms Dags Holldet ſef⸗ ur / Gud þa aꝥ Jordu uppreiſer þad/ Odaudlegt heilt z ꝥorklærad.

Tweñ skildest Hañ vid Heimeñ/ I Himna Sælu er nu komeñ/ Þar lifer Hñ hia Lambsins Stool/ lioomar ætijd sem skiæra Sool.

Sijdañ / eþ Presturenñ er þar umbeden og vorþeinktur/ giøre hañ Aminning til Folksins. Sie vond og stryd Vedrætta / þa kallest Foolked iñ i Kyrkiu ad heyra þar Lykpredikun. Og ad heñe endadre sieu sungeñ þesse Vers.

SOþe Hañ nu hier i Fride/ heim vier gaungum þra þessu Leide/ Sem best jafnañ sig side hvør/ so vitiar Daudeñ lijka vor.

Þar til Hialpa oss HErra Christe / hvør med sijnu Bloode oss leyste / Fra Diøfle / Pijnu / Dauda og Heim/ Dyrd/ Heidur / Loþ sie Konge þeim/ A M E N.

Þessu

# Þeſſu er vidauked wr Hañs Konglegrar Majeſtatis Chriſtians þeſſ Fimta Kyrkiu Ritual/ af Sal. Mag. ÞORDS THORlaks Syne/ wtgeingnum Anno 1685.

## Vm Freyſtadar Mann eſkiur.

VErde nockur a ſiñe Soottarſæng eda og endrarnær freiſtadur ſøkum ſinna Synda/ ſo hañ hlytur ad klaga med David/ ad hañs Synder ſieu jafnañ fyrer hønum/ og þær ſieu hønum vordnar ſo ſem øñur þung Byrde/ Pſalm. 38. Þa ſkal Preſturen/ ef hañ gietur þvi vid komed/ vitia hañs nockrum ſiñum a hvørium Deige/ og leggia alla Koſtgiæne a/ ad koma hañs Sæl til Rooſeme aptur/ uppa kad hañ ſkule ecke falla i Efaſeme/ um ſijna Sæluhialp/ og ſu Hrygd verde ecke Hrygd til Dauda/ 2 Cor:7. Og ſkal eirn Guds ords þienare i ſodañ Tilfelle einkanlegaſt. 1 Framſetia fyrer þañ

Freyſta-

Skriſtada/Guds oendanlega og grußlang ſa Myrkunſenie/ ſem er langtum ſtærre og kræptugre eñ allar vorar Synder/ Rom: 5. 2. Skal hañ ſetia hønum fyrer Siooner Herrañ Christum/ og ſierdeilis hañs almeñelega Forþienuſtu med hvørre hañ hepur fullkomlega giørdt Fullnustu fyrer vorar Synder: hañ er utgiefeñ fyrer oſſ alla/ Rom. 8. hañ er Daeñ fyrer alla/ 2 Cor: 5 Heb: 2. Hañ endurleiſte oſſ alla/ 1 Tim. 1. Þvi hañ bar allar vorar Synder/ Eſa: 53. Hañ leid fyrer þær allar/ Joh: 1. Og betalade fyrer þær allar/ i þvi ad hañ vard ein forlykun fyrer alls Heimſens Synder/ 1 Joh: 2. So er þa eirn Syndare viſſ þar um/ hvør helſt hañ er/ ad Syndeñ liggur ecke fram mar meir a hønum / helldur a þviþleckalauſa Guds Lambe Christo Jeſu/ ſem burtbar allar Heimſins Synder/ Joh: 1. Og uppa þad / ſa Freyſtade meige þeſſ framar Hughreyſtaſt hier um / þa ſkal eirn Guds Ords Þienare 3. Framſetia fyrer hañ Guds dyru Fyrerheit/ og þañ Eyd/ ſem hañ hepur ſvared øllum þeim/ ſem giøra eina ſanna Ydran / hvørſu Stoorſynduger ſem þeir eru: So ſañarlega ſem eg lifie / ſeiger DROTTeñ /

Droſt-

DROTTeñ/ þa deþe eg alldrei af Dauda hins Ogudlega/ helldur ad hañ snwe sier/ og liþe / Ezech. 33. Þvi nær ed hiñ Ogudlege i burtsnyr fra synu Ranglæte / sem hañ heþur giørdt / og breyter nu riett og vel/ þa skal hañ hallda siñe Sælu liþande / hañ skal vissulega liþa/ og ecke deya/ Ezech. 18. Nær eirn Syndare kiemst so langt / ad hañ nær ad þeckia syna Synd/ sem hñ heþur giørt a moote DROTTne synum Gude/ og þar a moot þa Naad / sem Gud heþur hønum audsyndt i Christo JEsu / þa þarþ hañ ecke ad skielþast wt aþ Vondsku siña Synda / hvørsu stoorar sem þær kuña ad vera/ þvi DROTTeñ er Myskunsamur/og vill ecke Reydast æþeñlega/ Jerem. 3. Þo ad vorar Synder sieu raudar sem Blood/ þa skulu þær samt verda hvijtar sem Snioor / Þar sem oss einasta ydrar þess Vonda/ og viet lætum aþ ad syndga þrerwdarsamlega a moote DROTTne/ Esa. 1. Þar uppa høþum vier 4. So mørg huggunarþull Eptterdæme bæde i þvi gamla / so vel sem i þvi nya Testamente / sem stoorlega kuña ad hughressa eirn Freystadañ og Angradañ Syndara. Hvad mikelega reitte

David

David Gud til Reide / bæde med Hoor-doome og Manslage/ og ødrum stoorum Syndum? Po took Gud hañ til Nadar/ þa hañ medkiende sijna Synd/ og þyrer-gaf hønum hans Ranglæte / þa hann ydradest þess/ Psalm. 32. Hvad stoor-kostlega syndgade Manasses a moote Gude / med Afgudadyrkan / sem hann framþylgde i Juda/ med Gølldrum/ med Offran hans Barna til Moloch/ sem hñ liet ganga i giegnum Elldeñ / med Oþ-sokn' Guds Ords Pienara/ þar hañ liet saga Esaiam sundur med Triesøg? Po fieck hañ Nad hia Gude / þa hañ kaña-dest vid sijna Synd/og audmijkte sig þy-rer DROTTne/ 2. Par. 33. Var ecke Paulus eirn Guds Spottare z Oþsok-nare? Po sijnde Gud hønum Myskun-seme/ þa hañ umvende sier til hans / og liet aþ sijnu Ranglæte/ 1. Tim. 1. Var ecke Petrus eirn Meinsæris Madur i moote Gude/ hvør ed þrisvarsiñum ney-tade og aþsoor siñ eigeñ HErra og Frels-sara? Po aumkade sig Gud yþer hañ / þegar hañ griet sijna Synd og liet sig angra hana/ Matth. 26. Eingeñ er wtelukeur þra Guds Nad / hvøsesu mik-ted sem hañ heþur syndgad / utañ þeir/

S sem

sem med Ydrunarleyse og Aurvænting þ. skwþa sier sialdum / sem Cain / Gen. 4. og Judas / Matth. 27.

Ep þeim Freystada synest ad hans Synder sieu margar og storar / þa vijsa hønum til þeirrar Bersyndugu Kvinu / Luc. 7. Hennar Synder voru og margar / en Gud fyrergaf henne þær allar. Ep hønum synest ad hns Ydran sie sein / þa vijsa hønum til Ræningians a Krossenum / han giørde allra fyrst Ydran a sijnum sijdasta Dauda Tijma / og fieck þo þad Andsvar af Christo / J Dag skallt u vera med mier i Paradijs / Luc. 23. Ep hønum synest / ad hans Trw sie ein gen / hvar med han kune ad forlæta sig uppa Guds Myskunseme i Christo / þa amin han ad bidia Gud þar um / og a medann læta sier nægia med þa veyku Trw og Epterlængan / sem han hefur ad meiga fina til Trwarennar / þvi hvar hun er / þar er og vissulega Trwen: GUD heyrer Gyrnd þeirra Fatæku seiger David / Psalm. 10. So leinge sem eirn Syndare stendur ecke i moote Gude þvert wdarsamlega / so leinge er og lijka Trwen hia hønum / ia fullvel þo han þyke ecke fina til hennar. Ja / i þvi ad han klagar

yfer

yþer ſijnum Trwarbreſt / þa maa hañ ar/ lykta/ ad hañ þo heþur Trwna/ jafnvel þo hun ſie ſem eirn riukande Lynkreik/ ur / og ſem eirn brakadur Reyr / þvi Triwen er opt og tijdum/ ſem eirn Neyſte i Oſkuñe / og ſem eitt Gullſtycke ſem i Jørdiñe er huled/ eda ſo ſem Tungled i ſiñe Formyrkvan. Sie han lijtel/ þa er þad þo Trw/ ſie hun huleñ / þa aug/ lyſeſt hun þo / og þa er þad þvilijkum Veykrwudum ſtoor Huggun og Hiart/ ans Glede/ad þeir vita ad Gud vilie ecke þañ brakada Reyreñ ſundurbrioota/nie þañ riukanda Lynkveikeñ wtſlöckva / Eſa. 42. Helldur ad þau Beineñ ſkule Gladvær verda / ſem ſundur haþa krar/ meñ vered/ Pſalm. 51. Þvi Gud allei/ na gieþur ſialþur Trwna/ Act. 17. Eñ einum ſierhwøriium epter ſiñe Mælingu/ Epheſ. 4. Vppa þad hañs Kraptur ſkule pullkomnaſt i vorum Breyſkleika / 2. Cor. 12. Eþ hønum ſyneſt ad Gud haþe hañ yþergieþed/ med þvi hañ ſkielþa eſt ſo ſøkum ſiña Synda/ þa vramſet þyo rer hañ/ þad Gud ſagde til Zion vorda/ um Daga : Eg heþ ecke yþergieþed þig / og vil alldrei niyna Hønd pra þier taka/ Heb. 13. Þo þad ad ſøñu kuñe ſynaſt /

 ſem

sem Gud hefde hañ yfergiefed / samt mun hañ þo med mikellre Myskunseme hønum samañsafna/ og þo hañ a Augna bragde Reydeñar um litla Stund hylie sitt Andlit fyrer hønum / þa mun hañ samt med eilijfre Myskunseme hønum myskunsamur vera/ Esa. 54.

Ef eirn Syndare er hræddur um þad ad hañ kune ecke ad hallda sier stadføstum vid Gud / þa skal hañ vita / ad GUD freystar einskis Mañs yfer Megn fram 1. Cor. 10. Og hafe hañ allareidu uppbyriad þad Gooda hia nockrum / þa mun hañ og eirneñ þad fullkomna / allt til þess Dags JEsu Christi/ Phil. 1. Fyrst hñ uppbyriar Viliañ til hins Gooda hia einum Syndugum / þa giefur hñ hønum og eirneñ Mad til / þad ad fram-kvæma/ Phil. 2. Og epter þvi Gud freystar einskis til hiñs Vonda / helldur ad aller Luter skule þiena þeim / sem Gud elska/ til hiñs besta/ Rom. 8. Þa kañ skie Gud giøre slijkt þessum Syndara / til ad reyna hañs Stødugleika/ og ad hañs Trwar Lioos skule þvi fegra skijna fyrer Heimenum/ Matth. 5. Þar fyrer byriar einu og sierhvøriu Guds Barne i soddañ Freystingum ad þaka

Gude

Gude hiartanlega/ ad hañ a þeſſañ Hætt virdeſt ad vitia hañs / og bidia Gud um Stadfeſtu allt til Enda / ad hañ mætte beriaſt goodre Barattu / behallda truwñe og goodre Samvitſku / þar til hañ um ſyder ødlaſt Rietlætesins Coronu/ hwøria Gud heþur hyrerhugad øllum þeim ſem elſka hañs dyrdarlega Tilkomu/ 2. Tim. 4.

Þetta og añad fleyra mæ eirn Guds Þienare koſtgiæþelega framſetia fyrer eirn Syndara/ſem er ſtaddur i Freyſtingum / og epter þvi ſem hentugaſt er / heimfæra þad uppa hañ ſialfañ/ad epter þvi Gud er ſo ovendañlega Myſkunſamur / og heþur tilſagt øllum Syndugum Nadena i Christo JEſu / þa ſkule hañ ecke af einungis Vantru og Miſtrauſte ørvingſaſt i ſynum Syndum / hvar med hañ giører Guds Nad ad aungvu/ tredur Guds Son med Footum / og reiknar Teſtamentis Blooded ſaurugt / fyrer hvørt hañ var Helgadur / og ſmævirder Nadarenar Anda/ Heb. 10. Amiñ hñ ad endurmiñaſt ſiñar Skyrnar / fyrer hvørja hañ er vordeñ eitt Guds Barn / og heþur feinged allra ſiña Synda Fyrergiefning. Hvar fyrer heþur Gud med-

veilt hønum sÿnu lÿfrkøptuga Orde? Hvar byrer hefur han byrer sÿna Pienara tilsagt hønum Syndaña Fyrergiefning i Skriftarstoolnum? Hvar byrer hefur hañ luted hañ Sluttakande verda i sÿns Sonar JEsu Christi heilagasta Likama og Bloode / og þar med aptur a nÿ giørt hñ vissañ um þ sama? Skyllde allt þetta vera þeim enum sama til Forgiefins/ hvørs Sælu Gud hefur vilIad so vel i øllum Hlutum? Og eñ þa þrambÿdur Gud hønum sÿna Naad / og kallar hañ sierdeilislega til sÿn / þar hañ nu so þiakast af Syndeñe/ Kom til mÿn þu angrada Sæl/ eg vil hressa / eg vil endurnæra þig/ Matth. 11.

Nær eien Syndare þa hañ fornemur/ ad Gud (hvørn hañ añars stigdt hefur) bere so mikla Vmhyggiu til ad frelsa hañ/ og hañ sier ecfert añad/ eñ einungis auglioos Naadarteñar Teikn/ og lÿka vel i sÿnum stærstu Freistingum. Hrør vill þa sækia epter ad atelta hañ/ til ad burt kasta fra sier soddañ naadarrÿku GVds Tilbode/ og hverwdarsamlega wtelyckia sig sialfañ fra Guds Naad/ nema Sathan/ sem stundar epter hañs Sælu / lÿka sem kostulegu Herfange/ ad hañ kuñe þ

ad

ad vinna? Amin̄ hann Frelſtada / ad kyſſa Guds Sønd og taka vid hans Kiærleik med Packlæte. Amin̄ hann ad gledia ſig i Guds Giæſku / z ſeigia med David: DR otten̄ eg gled mig / og em gladvær yfer þinne Myſkunſeme / þvi þu ælytur mijna Eymd / og þecker Saalu mijna i Neyd/ enne / Pſalm. 31. Amin̄ hann ad gledia ſig i Gude ſijnū Frelſara / og ſeigia med Job: Eg veit ad min̄ Endurlauſnare lifer / og eg mun ſiæ hann i Gleþe med þeſſum mijn/ um Augum / Job. 19. Amin̄ hann ad hug/ leida med David / hvad gott þad er ad hallda ſier til Guds / og ſetia ſijna Von a DRotten̄ / hann helldur hønum vid ſijna hægre Hønd / ad hann ecke falle / og hann lei der hann epter ſijnu Raade / og medtekur hann endelega til Æru / Pſalm. 73. Amin̄ hann ad epterfylgia Petro Raadleggingu og med ſtødugre Trw ad moodſtanda Diø flenum / vitande / ad adrer Hellager ſem i Heimenum eru / lida þa ſømu Anaud / 1. Pet. 5. Med þvi fleyra ſem eirn Guds Piſtare ſialfur med Koſtgiæfne kan̄ ad vtdraga af Guds Hellaga Orde / þeim Freyſtadu til Huggunar og Hugſrølun/ ar / med þvi hønum byriar þa einkanleg/ aſt ad framleggia ſijna Alvøru og Koſt/

 giæfne /

giæfne / að hañ fyrer Guds Tilſtyrk / mæ<br>tte umſnwa Syndaranum i fra Villu ha<br>ns Vegar / og frelſa hñs Aund fra Dauð<br>anum / Jac. 5.

5. Skal hañ og koſtgiæfelega aminna<br>þañ Freyſtaða til Bænarenar / að hañ æ-<br>tjð og jduglega biðie til Guðs með Da-<br>vid / af Pſalm. 51. Myſkuna þu mier<br>Guð epter mikellre Myſkunſeme þiñe / &<br>etc. Og einkanlega með Guðrækne j þre-<br>ke þeſſe Orð noc̃krumſiñum a hvøriū<br>Deige. O Guð / ſkapa þu i mier hreint<br>Hiarta / og gief mier eirn nijañ ſtøðugañ<br>Anda / kaſta mier ecke burt fra þijnu<br>Auglite / og tak ecke þiñ Hellaga Anda<br>fra mier / helldur lát mig ſia aptur Hug<br>gun þijns Hialpræðis / og þiñ Mättar<br>Ande ſtirke mig. Eda z ſo ſtuttlega með<br>Tollheimtumañenum. Guð vertu mier<br>Syndugum lijknſamur / Luc. 18. Ell-<br>er og epter Chriſti eigen Formi. Fader<br>fyrergief oſſ vorar Skullder / ſo ſem vi-<br>er fyrergiefum vorum Skulldunautum /<br>Matth. 6. Cap.

J ſama mata ſkulu og aðrer / ſem eru<br>nalæger hia hvilijkum Freyſtudum Mañ<br>eſkium með Bæn / Leſtrum z Lofſaung<br>vum Daglega uppøfva þeirra Sälar / að

þeir

kele meige gledia ſig i Gude ſijnum Seel⸗
ſera/ og komaſt æ meir og meir i Þeck⸗
ing yverpliootanlegrar Guds Naadar/
ſier til Huggunar og Hugſvølunar/ og
ad ſijduſtu til Naadarſamlegrar Frelſun⸗
ar fra þeſſum hørdu Freyſtingum. Hvar
til Gud veite ſierhvørium Sorgbitnum
Syndara Naad/ Styrk og Hialp⸗
ræde/ fyrer JEſum Chriſt⸗
um/ AMEN.

# Ein ſtutt Bæn
## D. IOHannis Olearii.
## Fyrer Sturladar Maññeſkiur.
## Pſalm. 30.

DROTTeñ miñ GUD/ þa eg kalla til þyn/ þa giører þu mig Heilbrygdañ. Um Kvølldtymañ varer Grauturenn/ eñ ad Morgne Dags Føgnudurenñ.

O Þu Eiæſkurijke GUD/ med þvi þad er mier Gagnlegt/ ad eg heimſooktur verde med Kvaxtarſømu Angre/ ſo ad eg þvi helldur Hiartanlega Andvarpe

S 5 um

um þýna Guddoomlega Huggun/mier til Sæluhialpar/ Eg bid þig / bevara þu mig fyrer længvarlegu og oendanlegu Rænuleyſe og Sturlan. Lattu mig ecke. i mørg Aar og langan Tyma/ þar med plægadan verda/ Helldur epter Freiſting una og Angurſemena Hughreiſtu mig/og epter Hirtingena/lattu mig Nad þina fyrer-þier/ ſo ad eg med Fagnude mitt Lyfſins Skeid i þeſſare Verølldu wtende/ Amen.

## Stuttur / þo Naudſynlegur
# Vidbæter
## Um Barn- Sængur- Konur og Kvena Inleidſlu I Kyrkiu.
Utlagdur wr Christiani 5ti. (Nu loglegrar Mininngar) Kyrkiu Ritual.

Pag. 97. ſqq.

Meſtarner ſkulu Koſtgiæfelega undervyſa Olietrum Konum og ærmina þær / ad þær med Packlæte viðurkiene þa

þa Blessan er Gud hefur þeim veitta/ og vakte sig fyrer Vadgiætne og skadlegum Tilfellum/ sem mæguleg vera kan: Og erfide trwlega i þeirra Kalle/ nær Tym̃en kiemur/ vitande ad jafnvel þo øll þesse Krøl sie Verdlaun Syndarenñar/ þa eru þær þo Gude þacknæmar i þeirre hinne sæmu Stiett/ nær þær eru stødugar i Trwñe/ Heilagleika og Hreinlyfe/ og med Þolenmæde vænta goodrar og miukrar Lausnar.

So skulu þeir eirnen̄ jdugloga áminna þær/ ad þær sieu þolenmoodar/ og opt og tijdum befale Drottne sijna Vegu og sin̄ Lijfs Avøxt til allrar Nadar og Verndar/ med þessum edur þvilijkum Hætte.

Eg þacka þier/ Almættuge eilijfe Gud/ elskulegaste JEsu Christe/ fyrer þessa þijna Blessan. Og med þvi þu sialfur hefur befalad/ ad Børnen̄ skule til þijn koma/ þa offra eg þier nu þessu mijnu Fostre og Lijfs Avexte/ og bid þig/ ad þu viljer han̄

med=

medakka/ og jafnañ þier befalad-
añ vera læta / þad hañ meige fæ
eilijfz Not af þijnu heilaga og dijr-
mæta Bloode/ og nær Tijmeñ er /
epter þiñe Velþocknan fyrer eina
gledelega og milda Lausn án allra
Meina koma i þeñañ Heim / og
þyrer þa heilogu Skijrn verda ende-
urfæddañ til eilijfrar Sæluhialp-
ar/ Amen.

Eñ ef eitt soddan Barn deyr i Moo-
durlijfe/ edur mædur eñ þad komast kañ
til Skijrnar edur Christne / þo þyrer
utañ Foreldrañs Yfersioon og Forsoo-
mun i nockurn Mata/ þa hafa þau samt
eina gooda Samvitsku / og meiga viss
vera ad þad er eitt Guds Barn / og
hefur bunded Mad þyrer Gude i Chri-
sto JEsu epter hañs eigeñ Fyrerheite/ i
hvørju hañ hefur lofad ad hañ ville ve-
ra, ecke alleinasta allra TRwadra/ helldur
og einneñ þEJRra SÆDes GVD /
Gen. 17. v. 7. Act. 8. v. 39. Þvi
jafnvel þo þad / epter Guds oransak-
anlegum Vilia ecke hafe kuñad ad niooita

þeirra

keitra Riett tilskickudu og tilgiørdu Sæluhialpar Medala/ ka er samt eing/ eñ Epe.æ ad Gud/ hvør ecke er vid Me/ dul bundeñ/ hefur vissulega af siñe yfer/ kliootañlegre Naad/ epter synum ogrijp/ añlegum Vijsdoome/ med ødrum sierdei/ lis Hætte medtekid þad til Sæluhialp/ ar/ eins og hañ giørde vid Israelis Børn i Egypta Lande/ sem strax voru i Hel steigeñ/ nær þau fæddust / og þau sem æ Fiørutyger Aara Reysu Tijma or/ umskoreñ burtu Doou æ Eydemørkeñe:

So synest þad eirneñ ad Davids fyrste Son af Bathseba hafe Daaed fyrer ætt/ unda Dag/ utañ Umskurnar/ og ædur þad hønum var Nafn gefed / þo seiger David um hañ: JEG Kjem Til PESS Og Pad Ecke Til Mijn. 2. Sam. 12. v. 23. Hvad sa goode Guds Madur munde alldrei hafa sagt/ hefde hañ añars trwad ad Barned være Fyrerdæmt af Gude.

Eñ ef Moodureñ Andast af Barns Førum/ þa veit hun þo ad hun deyr i siñe Stiett og verdur Hoolpeñ fyrer Barnburdeñ / ef hun trwlega og þolin/ moodlega wtstendur sitt Erfide.

Um

# Um Kyrkiu Innleidslu þeirrá Kveña sem fæda sijn Born Andvana.

HAfe Barned dæed fyrer/ edur epter Barnburdeñ/ fyrer ellegar epter Skýrnena/ sie añadhvørt Barned edur Mooderen sialf nockud sierdeilislega Vanheil og Ohraust/ ellegar nockur Veikleike af þvi Tilefne uppafalleñ / þa lage Prestureñ sijn Ord og Hugganer þar epter/ og kañ hañ i slykum Tilfellum tala a þeñ ann Hætt :

ELskulegt Guds Barn / Þier erud nu mæskie med miklum Andverpū & Sorgarveine i Dag uppgeingnar til Hussens DRottens epter þeñañ harda og ørduga ydar Barnburd/ so sem ein Harmþrungeñ Mooder /sem saknar Barns sijns / Luc. 2. v. 43. Eñ þier skulud gañga med Þacklæte inn i Guds Hws. Þvi ja nvel þo þier Sorgfullar vera meiged i ydar Hiarta / þar ad Gud

Gud hefur burtteked ydar Barn fra
ydur / Ber ydur samt ad hugleida /
ad Gud took eckert / nema þad sem
hañ ædur hafde ydur giefed. Og hv
ad kuñed þier þa añad ad seigia um
þetta Guds Verk / eñ þad Job sæ
Mootlætte Fader sagde / nær øll hñs
Børn voru daud. DROTTENN
GAF / DROTTeñ BURTtook /
LOfad Sie NAfned DROttens /
Job. 1. v. 21. ? Nu þo ad þier
hafit hafed Piñning og Harmkvæle
fyrer ydru Barne / so ydar Lendar ha-
fa af Pijnu vanmegnast vegna ydar
Barnburdar / þa vited þier þo / ad
Gud var sæ semliet hañ Avøxt va-
ka med ydur / ad þier ecke reiknast sky
llud i bland þeirra Ofrioofu. Og hñ
gaf ydur Stirkleika til ad fæda / þad
sem til Fædingareñar var fullkomed /
hvar añars eingeñ Stirkur vered hef-
de / 2. Reg. 19. v. 3. Hvørt vilied
þier þa reidast þvi / sem þier vorud
allvret

alldrei rædande/ og sialfur Gud hef ur hiñ allra mesta Riett til? Job. 4. v. 9. Villed þier gremiast iffer þvi ad Gud hafe ydar Ervide og Von ad øngvu giørt/ ad þier med Moodur Sisterœ vœntud ydur lifanda Barns/ og sia/ þess Lijf var i bursku? Þier vœntud Glede/ Jud. 16. v. 21. Og sia þar var Sorg/ Jer. 8. v. 15. So þeinked þo ecke ad ydar Von sie med ollu vte. Og þier skulud øngvu ad sijdur lijkiast Job i hug prijdeñe þegar Neideñ la sem hardast a hønum. HD Ad DRottiñ DEJde Mig/ þa Vil Eg Samt a Nañ Vona/ Job. 13. v. 25.

Sie ydur þad til Angurs/ad ydar Barn hafe daed i Moodurkvide/ adur eñ þad fyrer Endurgietning arenar Laug fiecf Lijfed i Christo/ Gal. 3. v. 27. Þa hugged ydur apfur i moot far vid/ad þier vited/ þad ydar Barn er medtefed z hallo-

ed

